# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., MARZ 1894. | 3.

## Hugleiðingar um ritninguna.

### IV.

*Innblástr, opinberun, hið sanna gildi ritningarinnar.*

Að framan hefir nokkuð verið talað um óskeikulleika ritningarinnar, og sýnt fram á að hann á sér ekki stað í þeirri bók, en nú skulum vér snúa oss að nokkrum spurningum, sem menn stundum koma fram með, og er þá:

1. Innblástr. Sé nú svo, sem hér að framan er sýnt og sannað, að bækur gamla og nýja Testamentisins geti ekki verið óskeikular, geta þær þá verið innblásnar af guði? Ef menn skilja við inn blástr, að alt sem innblásið sé, sé fyllilega satt og vísdómsfult, þá getr enginn sem neytir skynsemi sinnar sagt það um ritninguna, að hún sé innblásin; en skilji menn við innblástr, að í bók þessari finnist gullkorn, setningar, kaflar, sem fela í sér guðdómlegan sannleika, innan um hið mannlega og ófullkomna, þá geta menn vissulega kallað hana innblásna, eins og hverja aðra bók sem það hefir inni að halda, því að hver ein góð og heilög hugsan, hvert eitt göfugt verk, hver ein tilraun til hins góða, á orsök sína að rekja til guðs hins lifanda, „í hverjum vér lifum, erum og hrærumst.“ Fyrir því er innblástrinn náttúrlegr mannlegri sálu. Allir menn hafa innblástr, sumir meiri en sumir minni, sem fer eftir hæfileikum þeirra, eftir því, hvort þeir opna hjörtu sín fyrir sannleikanum, réttvísinni og dygðunum, eða þeir loka þessar

hugmyndir úti. Þar sem því þessar hinar háleitu hugmyndir koma fyrir, þá getum vér skoðað það sem innblásið, en vér hljótum um leið að játa það, þar sem vér finnum hinar sömu setningar, eða aðrar jafn göfugar, í hinum ýmsu biflíum annara þjóða, sem flestar eru eldri en biflía vor, að þær séu einnig innblásnar, svo sem í „Rig Veda" Brahmatrúarmanna, í „Zend-Avesta" Parsa, í „Tripitaka" Buddhatrúarmanna, í „Kingbókum" Kínverja og í„Kóran" Mahómetstrúarmanna. Því þar sem sannleikrinn, réttlætið, kærleikrinn og dygðin er, þar er guð; þess vegna verðr hið sama að segja um hið

2., hvað sé opinberun. Vér trúum því víst allir, að ekki sé til sú þjóð eða mannleg vera, sem guð ekki að einu eða öðru leyti opinberi sig í. Því getum vér fyllilega sagt, að guð hafi opinberað sig í og fyrir Ísraelsþjóðina, sérstaklega hjá hinum miklu spámönnum og trúarkennurum þeirra, svo sem Abraham, Móses, Davíð, Esajas, Páli og langt um fram alla Kristi sjálfum. Vér getum sagt, að í sumum bókum ritningarinnar sé mjög mikið af guðlegri opinberun og í sumum aftr mjög lítið. En vér megum ekki segja, að þetta sé hin eina opinberun guðs, því þá færum vér með ósannindi. Vér getum sagt að ritningin sé hin fullkomnasta opinberun guðs frá gömlum tímum, en ekki hin eina; því vér getum ekki ætlað, að guð hafi að eins farið að opinbera sig þessari einu þjóð, gyðingum, en láta allar aðrar þjóðir vera olnbogabörn sín, láta þær ekkert vita um sig; vér getum ekki kastað öllum hinum helgu bókum heimsins, biflíum Hindúa og Parsa, sem báðar eru miklu eldri en biflía vor, eða biflíu Buddhatrúarmanna sem er heilög haldin af meiri fjölda manna, en allir kristnir menn eru saman taldir, eða kínversku biflíunum, gömlum og æruverðum bókum; eigum vér að kasta öllum þessum bókum og segja, að guðs rödd, eða guðs orð komi hvergi fyrir í þeim? Nei, vér dirfumst ekki að segja það. Vér dirfumst ekki heldr, að neita því, að guð hafi opinberað sig í þúsundum mikilla manna, hreinna sálna er fylt hafa bókhlöður vorar með ritum sínum, eða að hann opinberi sig enn þann dag í dag, og opinberi sig einlægt fyllra og fyllra eftir því sem tímar líða, í náttúrúríkinu, frá hinu smágjörfa og upp að stjörnunni sem sveiflast um geiminn, í vísindunum, í listunum, í skáldskapnum, í sönglistinni, í sögunni, í sálunni, í samviskunni og hjarta mannsins. Vér dirfumst ekki að nefna til nokkra grein þekkingarinnar, eða nokkurn sannleika eða göfuga hugmynd, eða veglyndis-hvöt, er maðrinn hefir

til að bera, er eigi sé frá guði, opinberun hans í manninum. En er þá opinberun guðs innifalin í nokkurri einni bók eða safni af bókum? Vissulega ekki, því allar bækur heimsins rúma ekki opinberun guðs. Og þótt bókagjörð haldi áfram í tugi þúsunda ára, þangað til bókhlöður, eins stórar og hið forna og mikla bókasafn í Alexandríu, eru margar orðnar sem sandr á sjávarströndu, þá verðr langt frá því að opinberun guðs sé úttæmd með öllum þessum bókum. Því alt til tímanna enda, fram um alla eilífð, verðr guð að opinbera sig, hvar sem auga verðr að sjá, eða eyra að heyra, eða hugr að grípa, og einlægt mun hann opinbera sig betr og betr.

3. Þá er spurningin um það, hvort trú og siðgæði eigi rót sína að rekja til ritningarinnar. Hvort mundum vér hafa haft nokkra trú eða nokkurt siðgæði, ef að vér aldrei hefðum séð ritninguna? Mönnum hættir oft til að spyrja svo, einkum þeim sem lítið eða ekki þekkja til sögu mannkynsins. Því þeir, sem henni eru kunnugir, vita það, að bæði trú og siðgæði voru til löngu áðr, en nokkur hluti ritningar vorrar var skrifaðr. Hvort tveggja, bæði trúin og siðgæðið hefir blómgvast og borið ljómandi ávexti í þúsundir ára, þar sem enginn maðr hefir heyrt minnst á biflíuna. Hér að framan hefir í riti þessu verið sýnt fram á það, að hinar hreinustu og háfleygustu trúar- og siðgæðis-kenningar gamla og nýja Testamentisins hafa fundist í öðrum helgum bókum þjóðanna, og það sumum þeim sem eru miklu eldri en biflía vor. Og ef vér viljum fara að leita í sögu þjóða þeirra, sem engar helgar bækur áttu, svo sem hjá Grikkjum eða Rómverjum, þá rekum vér oss iðulega á nóg dæmi dygða og mannkosta. Vér hittum þá menn, sem vér hljótum að játa að hafi haft hreina og göfuga trú.

Vér sjáum þannig að trúin og siðgæðið er ekki ritningunni að þakka, biflían er hvorki uppspretta trúarinnar né siðgæðisins, þótt sumir ætli hið gagnstæða. Siðgæðið og trúin hafa verið til í heiminum frá öndverðu, fyrst á mjög lágu stigi, en einlægt vaxið og þróast, og það er einmitt þetta þroskunarlögmál sem hefir framleitt ritninguna. Vér sjáum það líka, að þótt vor eigin ritning og biflíur allra annara þjóða væru eyðilagðar, svo að ekki fyndist stafr eftir af þeim, þá mundi trúin og siðgæðið framleiða aðrar nýjar biflíur, óefað miklu fullkomnari, meðan nokkur þörf væri fyrir þær. Því að grundvöllrinn fyrir dygðinni og trúnni er ekki og getr ekki verið í neinni bók, heldr í guði sjálfum, í eðli hlutanna og í sálu mannsins. Biflían hefir

vissulega stutt mikið að því, að hrinda fram og efla trúarlegan og siðferðislegan þroska hjá þjóðum þeim, sem hafa notið hennar. Þessar þjóðir eiga því ritningunni mikið upp að unna, og saga þeirra hefði orðið alt önnur i trúarlegu og siðferðislegu tilliti, ef þær aldrei hefðu séð hana. Vér getum jafnvel sagt að ritningin sé lind sú, er hin kristnu trúbrögð hafa runnið frá, rétt eins og vér getum sagt, að Vedabækurnar séu lindin, sem Brahmatrúin er frá runnin. En alla daga verðr það satt sem prófessor einn merkr hefir sagt: „að biflían hafi ekki skapað trúna, heldr hafi trúin og réttlætistilfinningin skapað biflíuna.“

4. Þá er aðgreiningin á sannleikanum frá ósannleikanum — á hinu innblásna frá hinu óinnblásna í ritningunni. Ef að til eru villur eða mótsagnir í ritningunni, það er að segja, ef að ritningin er ekki öll innblásin af guði og óskeikul, hvernig getum vér þá vitað hverjir partar hennar eru sannir og guðdómlegir og hverjir ekki, með öðrum orðum, hverju vér eigum að halda og hverju vér eigum að hafna? Spurning þessi veldr oft alvarlegum og samvizkusömum mönnum talsverðra vandræða, og þó virðist skrítið að svo þurfi að vera, því svarið er vissulega mjög einfalt og liggr beint við. Þegar ræða er um vísindalegar og sögulegar spurningar eða viðburði er snerta biflíuna, þá eigum vér að sjálfsögðu að finna hvað sé satt og hvað sé rangt, alveg á sama hátt og endrarnær, með eftirgrenslan og rannsókn. Því þannig má án alls efa leysa úr nær því öllum hinum þýðingarmeiri og nauðsynlegu spurningum þessum. Að svo margt er enn óleyst á efalaust að miklu leyti rót sína að rekja til þess, að alt til þessa hefir verið svo næsta lítið um samviskusama og óhlutdræga rannsókn. Ef að varið hefði verið að sínu leyti eins miklum tíma og ástundun til þess að komast réttilega fyrir sannleikann í hverju tilliti sem kann að vera, eins og farið hefir til þess að bannsyngja villutrúarmenn, og berja blákalt fram hina og þessa ímyndaða loftkastalabyggingu, að því er biflíuna snertir, þá mundu þúsundir biflíulegra spurninga þegar fyrir löngu hafa verið leystar.

Til þess að finna hvað vér eigum að aðhyllast og hverju vér eigum að hafna, er um siðferðislegar kenningar biflíunnar er að ræða, þá er úrlausnin enn einfaldari, því þær eru vissulega auðveldar og hafa aldrei verið miklar torfærur fyrir hvern þann, er alvarlega og skynsamlega les biflíuna. Allar aðalkenningar siðferðisins eru augljósar, og þarf því eigi að villast á þeim. Þær eru ritaðar innst í eðli hvers manns, og að því skapi sem mannkynið kemst á hærra og fullkomnara mentunarstig,

því auðsærri og áþreifanlegri verða þær, og það jafnvel fyrir þá menn, er aldrei hafa þekt neitt til biflíu vorrar. Það er því næsta skrítið ef að vér, sem lifum á hinu æðsta mentunarstigi er heimrinn nokkru sinni hefir séð, þurfum á biflíu að halda, sem er yfirnáttúrlega óskeikul, til þess að greina dygð frá lesti, og það sem göfugt er frá því sem ilt er í mannlegu framferði. Þá er vér lesum aðrar bækur, veitir oss venjulega alls eigi örðugt að fella dóm um, hvað þar sé ágætt og aðdáanlegt, og hvað sé þar miðr gott og rangt. Hvers vegna skyldi oss þá veita örðugt, er vér lesum biflíuna, að greina hið siðferðislega góða frá hinu siðferðislega illa?

Svo er og varið hinum miklu andlegu kenningum biflíunnar, þær bera og með sér vottorð og gildi sjálfra sín. Slík orð sem hjá Páli 1. Cor. 13. kap. eða Matt. 5, 3.—17., er ómögulegt að menn geti misskilið. Yfir höfuð má svo segja — og ekkert getr verið einfaldara — en að hvað eina í biflíunni er hjálpar manni, þá er menn lesa það, styrkir mann, gefr manni æðri hugmyndir um guð, eykr trú manns á mannúð, rýmkar um tilfinningarnar, betrar mann, vekr alvörugefni, gjörir mann trúbetri og helgari í trúnni á hið sanna, fagra og góða, er vissulega frá guði, og á því að taka því með jafn miklum trúnaði eins og væri það talað með heyranlegri rödd til hvers eins frá himnum ofan. En hins vegar má ganga að því vísu, að hvað eina sem í biflíunni eða annars staðar miðar til þess að draga úr hugmynd manna um guð, eða rugla siðferðislegar skoðanir þeirra, eða lækka gildi lífsins og þýðing skyldunnar, eða kasta skugga á andlega sjón þeirra, það er vissulega eigi frá guði, og engin kirkjuleg helgun eða staðhæfing, og ekkert svo nefnt vottorð kraftaverka, né nokkuð annað, getr gert þeim að skyldu að gera nokkuð annað en hafna því.

Berum saman fjallræðuna og formælingarnar í 109. sálminum, eða söguna um hina svikulu Jael, er á laun myrti þann er hún hefði átt að gera gott, við dæmisöguna um hinn miskunnsama Samverja, eða þessi orð Salómons: „Maðrinn hefir enga yfirburði yfir dýrin“ við orð Jóhannesar: „Mínir elskanlegir! erum vér ekki allir guðs börn,“ og mun nokkrum veita örðugt að skilja hvort orða þessara er talað að ofan og hvort þeirra ekki? Hinn einfaldi sannleikr er sá, að taki menn biflíuna og lesi hana sem hverja aðra bók, án þess að láta nokkrar hugmyndir um óskeikanlegleik hennar rugla heilbrigðri skynsemi þeirra, eða koma glundroða á dóma þeirra, þá munu allir erfiðleikar því nær

eða algerlega hverfa, og þá mun eigi veita örðugt að greina, hverju skuli halda í biflíunni eða hafna, og það sem álengdar virtist svo næsta örðugt mun þá hverfa út í loftið, og reynast að vera lítið annað en draumórar guðfræðinganna.

5. Biflían borin saman við aðrar bækr. Á þá að gera biflíunni jafnt undir höfði og öðrum bókum? Þessu verðr að svara neitandi. Þó að margir fossar séu í heiminum, er að eins einn Niagara, þó að íþróttin hafi í mörgum löndum staðið á háu stigi, þá er þó að eins til eitt Grikkland, þó að meðal allra þjóða og á öllum öldum hafi verið skáld, þá hefir heimrinn að eins átt einn Shakespeare. Það virðist því eigi óviðrkvæmilegt að segja, að að eins sé til ein Palestína, enda þótt mikil og háleit trúbrögð hafi komið fram í mörgum löndum, og þó að margir miklir og sannir trúbragða boðendr hafi komið fram í sambandi við trúbrögð þessi, þá hefir mannkynið þó átt að eins einn Jesús. Náttúran fer jafnan sparlega með hina bestu afurði sínar, hvort sem að þeir eru í hinum líkamlega eða andlega heimi. Svo virðist sem að hinir bestu siðferðislegu og andlegu afurðir þessa gamla heims, er öll vor miklu trúbrögð og hinir dýpstu straumar hins siðferð-

íslega og andlega lífs vors eru runnir frá, hafi komið fram í Júdeu og Galileu, og séu í því safni hebreskra bókmenta sem vér köllum biflíu vora.

6. Hið sanna gildi biflíunnar. Það er önnur spurning og mjög þýðingarmikil, en hún er þessi: Í hverju er gildi biflíunnar fólgið? Eigum vér er lifum nú á dögum, á tímum þar sem alt er svo fráleitt því þá er biflían var rituð, og sem njótum svo miklu meiri andlegrar mentunar en þeir er rituðu hana, að halda áfram að lesa hana og setja hana í tignarsætið meðal trúarbragðabóka okkar?

Þessu má svara á þá leið: Gildi biblíunnar er marghliða og oss er margskylt að sýna henni athygli vort og virðing.

A. Biflían í bókmentalegu tilliti.

Það eru partar í biflíunni sem að minsta kosti hafa mjög mikið bókmentalegt gildi. Það virðist vera skoðun þeirra manna er færastır eru að dæma um þau efni, að sumar bækur, bæði í gamla og nýja Testamentinu, megi setja til jafns við það sem best er í bókmentum hverrar aldar eða lands sem er. Mörgum lærðum mönnum hefir þótt koma jafnt til sumra sálmanna eins og ljóða Pindars og

Wordsworths, og hafa jafnað Jobsbók við sorgarleika Sófóklesar eða Shakespeares og spádómum Esajasar og Rómverjabréfinu við hver önnur trúbragðaleg eða siðferðisleg rit heimsins.

(Framh.)

---

# Er syndaflóðið sögulegr og sannr viðburðr eða ekki?

Fyrirlestr eftir M. J. Sk., fluttr að Gimli og í Dakota 1892.

—:o:—

(Níðrl). Stjörnufræði þektu Assýrar á þeim tímum, og bygðu stjörnuturna í flestum stórborgum. Myndasmiðir voru þeir miklir, og málarar, og alls ólíkir því að þjóð þeirra væri ekki eldri en 70 ára. Konungar þeirra, Tiglat Pilerar 1. og 2., Shalmanesar 1. og 2., Seunacherib, Essarhaddon og Sardanapal voru margir mestu menn. Má rekja ættir þeirra ofan á sögutímann með fullri vissu. Upphaflega hafa trúbrögð þeirra verið lík trúbrögðum Síberíuþjóðanna; þeir héldu að andar og djöflar væru á hverju strái. Seinna fóru þeir að dýrka þrenninguna, Anna = loftið, Ea = jörðina og Mulge = undirheimaguðinn, en smám saman hneigðust þeir til meiri og meiri sólardýrkunar. Af þjóðsögum

þeirra, sem menn eru að grafa upp, sést það, að Gyðingar hafa að miklu fengið sköpunarsögu sína þaðan, eins og aðrar gamlar sagnir, þar á meðal söguna um flóðið góða (sjá Isdubarsögurnar), en sem náttúrlega hefir að eins verið ævagömul þjóðsaga um eitthvert mikið flóð er fyrir hefir komið og gengið þjóð frá þjóð. Á austrlöndum koma flóð þessi oft fyrir við árósa mikla og týna mönnum og fé, er ekki langt síðan að nokkur hundruð þúsund týndust í einu þess konar flóði við ósana á Indus. Hafalda mikil er oftast orsakast af fellibil, veltist upp að landinu og stýflar árósana, flóa svo bæði árnar og sjórinn út um landið í kring. Auk þessa finnast þar sögur, er mjög líkjast sögum ritningarinnar um turninn Babel, um syndaflóðið, um cherubinn (cherub er chaldeiskt orð) með hinu blikandi sverði, og tréð helga, lífsins tré, er hann átti að geyma; saga, er líkist sögunni um það, er Abraham ætlaði að fórna Ísak. Þetta sýnir alt saman, að Gyðingar hafa tekið sögur þessar að láni hjá Chaldeumönnum, rétt eins og vér Íslendingar hér í Ameríku flytjum með oss í álfu þessa fornsögur og þjóðsögur heiman af gamla landinu.

Vér skulum nú fara enn lengra austr, til þess að vita hvort vér verðum varir við nokkur spor af mönnum um það leiti sem Nói var uppi, því sé það satt að vér séum allir frá Nóa komnir og frásaga ritningarinnar sönn, þá getum vér ekki átt von á að finna neina menn í austrlöndum aðra, en afkomendr Nóa gamla. En þá bregðr öðruvísi við, því hinn mikli spekingr Kínverja, Confúcíus, sem uppi var 550—478 fyrir Krist, byrjar hina kínversku sögu sína árið 2,356 fyrir Krist, þá ríkti Yaou keisari yfir Kínverjum, næstr honum kom Shun keisari til valda. Hafa miklar sögur gengið af keisurum þessum; voru það svo góðir menn að við var brugðið, og svo gott dæmi gáfu þeir þjóð sinni, að dygðin og kærleikrinn drottnaði, glæpir þektust ekki á þeirra dögum, og þjóðin óx stórum að velgengni og mannfjölda. Á efri dögum Shuns kom flóð mikið í stórána Yangtsekiang,

svo hún flóði yfir bakka sína, braut sér nýja farvegu og eyðilagði miljónir akra. Þá var maðr nokkur, Yu að nafni, fenginn til að veita flóði þessu burtu; fékkst hann við það í 9 ár með tugum eða hundruðum þúsunda manna, loks lukkaðist honum það; en fyrir þetta stórvirki gjörði keisari hann að eftirmanni sínum. Þar voru góðu og miklu verkin í metum höfð og kórónan veitt að maklegleikum. Þessari sögu heldr Confúcíus fram keisara eftir keisara alt niðr til sinna tíma og þá halda lærisveinar hans áfram. En einhvern veginn virðist það vera svo, sem Kínverjar hafi haft fullkomnari og sannari hugmyndir um aldr jarðar, en höfundar ritningarinnar, því þjóðsagnir þeirra telja, að maðrinn hafi verið á jörðunni í 2.267.000 ár fyrir daga Confúcíusar, dálítið lengra en þessi 6000 ára tími Mósesar.

Kínverjar, Mongólar og hinn túranski flokkr eru með eldgamla mentun, frábrugðna siði, frábrugðin trúarbrögð og með alt öðru sköpulagi og tungumáli heldr en hinn aryanski eða syro-chaldeiski flokkr. Þá eru og svertingjar með alt annað sköpulag og öðru tungumáli en ættmenn Nóa, og vér vitum að þetta skapnaðarlag þeirra hefir verið hið sama og það er nú, fyrir 4000 ára að minsta kosti, því vér höfum myndir af þeim höggnar í stein frá þeim tímum. Þá eru og hinir rauðu íbúar álfu þessarar, Ameríku. Þeir hafa sína frábrugðnu líkamssköpun, sín frábrugðnu tungumál, sem alls ómögulegt er að koma saman við tungu Gyðinga. Hvernig geta menn nú hugsað sér, að þetta alt skuli vera menn af sama flokki, allir vera afkomendr Nóa gamla síðan 2.300 árum fyrir Krist? Nei, það gengr ekki. Vér þekkjum eldgamlar fornmenjar, eldgömul trúarbrögð, eldgömul ríki í álfu þessari. Þegar Spánverjar komu hér, sællar minningar, og brutu undir sig landið, þá fundu þeir hér stór og voldug ríki í Mexíkó og Perú, með mik-



illi mentun; i sumum tilfellum meiri mentun, en þá þektist í Norðrálfunni.

Ef vér alvarlega förum að hugsa út í það í þessari eftirleit eftir Nóa gamla, þá sjáum vér fyrst, að vér finnum hann ekki, annað, að vér í sögu Chaldea komumst fast að dögum hans, því Chudur-nanghundi var uppi 2.280 árum fyrir Krist, bókhlaða var stofnuð í Agane 2.000 árum f. Kr., en í Kína er Yaou keisari uppi fyrir daga Nóa, 2.380 árum f. Kr., og hjá þessum þjóðum öllum, og ekki síst á Egyftalandi, getum vér rakið oss upp eftir, alt frá því tímabili er G. T. var skrifað, alla leið upp til Menesar konungs. Einlægt tekr ein konungsættin við af annari, einlægt er Nílárdalrinn jafn fjölskipaðr og fyrri, einlægt reisir þessi undra þjóð hvort musterið af öðru, einlægt höggva þeir út hverja tröllalíkneskjuna á fætr annari, og svona gengr það, þar til vér erum komnir einum 1000 árum aftr fyrir Nóa, þá fara sagnirnar að verða óljósari, en þó allmiklar líkur til að þar megi komast enn lengra, aftr fyrir sköpun veraldar eftir biflíutali. En á öllum þessum tíma heyrum vér aldrei um Nóa getið, aldrei um það, að mannkynið hafi verið strádrepið niðr, vér sjáum hvergi nein merki þess, að Nói eða nokkur sona hans hafi verið ættfaðir þessara þjóða.

Alt að einu getum vér byrjað á hinum norrænu forfeðrum vorum, vér getum rakið spor þeirra austr að hinu Kaspiska hafi, suðaustr undir Himalayafjöll, til þess tíma er þeir kvísluðust frá hinni eldgömlu Aryanaþjóð, áðr en Brahmatrúin, áðr en Zóróasterstrúin fór að myndast, löngu, löngu áðr en nokkur bókstafr ritningarinnar var ritinn, og aldrei finnum vér nokkurn Nóa eða nokkurn Jafet, aldrei verðum vér varir við að þessi hin mikla þjóð hafi orðið fyrir þeirri eyðileggingu sem get-

ið er um í sögu Nóa. Vér sjáum Kínverja á hinum elstu tímum vera búna að mynda ríki, grundvalla stjórnarskipunarlag, koma á fót mentastofnunum, og hve ákaflega langr tími þarf ekki að líða til þess að geta það? Hversu langr tími þarf ekki fyrir menn, vilta eins og dýrin í skógunum, til þess að nema stjörnufræði, eins og allar þessar þjóðir voru búnar að, eða til þess, að fullkomna tungumál sín, koma föstum óbreytanlegum lögum á sagnir, lýsingarorð og nöfn, á öll atriði málsins. Um allan hnöttinn finnum vér óræk merki til þess, að hann hefir verið bygðr af hinum ýmsu tegundum þjóðanna frá ómunatíð. Eða hvernig getum vér hugsað oss, að mannkynið geti hafa breyst af einu kyni í allar kynkvíslir jarðarinnar, og það á ekki lengri tíma en sögur Hebrea gefa oss til þess, það er alveg óhugsandi. Þá eru og dvergþjóðir þær, sem nú eru nýfundnar í skógum Mið-Afríku, og sem menn einnig hafa fundið menjar af hér í Ameríku, ekki líkar því að vera komnar af sonum Nóa gamla.

Ef vér förum nú að gæta að tungumálunum, þá sjáum vér að þau skiftast í mjög ólíka flokka, sem augsýnilega eiga ekkert skylt hver við annan. Menn skyldu kann ske ætla að þau hefðu öll sundrast við það, er turninn Babel hrundi forðum daga, þegar ritningin segir að drottinn hafi komið niðr á jörðina, til þess að skoða borgina og turninn sem mannanna synir höfðu gjört. En fyrst og fremst getum vér tæplega ætlað, að þá hafi safnast saman um einn turn menn af allri jörðinni, norðan af Bretlandseyjum og Síberíu, vestan úr Suðr- og Norðr Ameríku, austan úr Kina og Japan, sunnan úr Afríku og Eyjaálfunni. Þeir hefðu þurft meira en smábáta til að sigla yfir hin miklu veraldarhöf. En það hlyti að vera, ef að tungumálin í fyrstu hefðu verið eitt, en átt að kvíslast á svipstundu við hrun turnsins. Og svo er hitt, að turninn Babel átti að hafa verið bygðr og hrynja svo, nokkru



eftir Nóaflóðið, meira að segja, eftir að regnboginn átti fyrst að sjást í skýjum himins. En þótt vér sleppum því að dagsetja regnbogann!! þá sjáum vér fljótt, að Nóaflóðið átti að vera milli 2.300 og 2.400 árum fyrir Krist, og turninn hrundi þó löngu seinna, en um þann tíma telja fræðimenn að hinar fyrstu biflíur Inda hafi verið ritaðar. Löngu áðr voru Egyftar farnir að rista rúnir sínar á musteri og legstaði sína. Löngu áðr voru málin farin að skiftast, ef þau hafa ekki verið aðgreind alt frá þeim tíma er menn fyrst fóru að tala á jörðunni. Þau eru svo aðgreind og hafa einlægt verið svo aðgreind frá þessari myrku fortíð, að menn hafa skift þeim í þrjú aðalflokka:

1. Eins-atkvæðis málunum, svo sem kínversku og mörgum tungumálum hér í Norðr-Ameríku, þar sem atkvæði er bætt við atkvæði, án þess þar finnist nokkur málfræðislegr skyldleiki, og án þess að atkvæði þessi breytist eða hafi nokkra beygingu.



2. Hinn 2. flokkr er hinn svo kallaði agglutinative (saman límdi) flokkr. Þar eru orðin og óbeygjanleg og tengd saman af handahófi, svo sem túrönsku málin, er þeir tala: Tartarar, Finnar, Lappar, Ungarar og Kaukasusbúar, og hefir flokkr sá er talaði þau tungumál, náð alt austan frá Japan yfir þvera Norðr-Asíu vestr að Vínarborg, og norðan frá íshafi alt suðr á Litlu-Asíu og Afghanistan.

3. Í hinum þriðja flokki eru hin beygjanlegu tungumál. Þar fyrst kemr mentunin fram, og þau skiftast aftr í 2 afarstóra flokka, hinn Semitiska flokk og hinn Aryanska flokk, sem ég hefi þegar drepið á að eru svo ólíkir hvor öðrum, og hvor fyrir sig hefir breiðst út um heiminn. Hinn aryanski um alla Norðrálfu og part af Asíu og einnig Ameríku, en hinn semitiski um suðvestrhluta Asíu og Afríku.

Ef nokkur færi nú að segja málfræðing frá því, að þessir tungumála flokkar væru af sama stofni runnir, þá færi hann að skellihlæja, sem vonlegt er, eins og jarðfræðingarnir, ef þeim væri sagt að jörðin og allr heimrinn sé að eins 6.000 ára, eða þjóðafræðingarnir, ef þeim væri sagt að mannkynið hafi fyrst fæðst með Adam fyrir einum 6000 árum og drukknað svo alt á dögum Nóa gamla. Ég segi yðr það satt, að það dugar ekki að bera það fram fyrir nokkurn mentaðan mann, sem sannleikann elskar.

Ég drap áðan stuttlega á Baskana, sem búa í Pyreneafjöllum norðantil á Spáni, þessa hrokkinhærðu, smávöxnu þjóð, með höfuðkúpurnar langar og mjóar, mjög líkar höfuðkúpum hinna yngri steinaldar-

manna. Þeir tala tungu ólíka öllum öðrum tungum, nema ef vera skyldi Finnum. Virðast þeir vera leifar af hinum fornu íbúum Norðrálfunnar, sem hinir aryönsku forfeðr vorir ýttu frá sér, og lögðu undir sig löngu áðr en sögur hófust. Líkt á sér stað með Paríana á Indlandi. Að minsta kosti er það ætlan vísindamanna, að þeir hafi verið hinir fornu íbúar Indlands, er frændr vorir þar eystra hlupu ofan úr Himalayafjöllum og lögðu það undir sig. Nú eru þessir Paríar svo kúgaðir og undirokaðir, að þeir mega ekki koma nærri hinum öðrum Indum. Alt það er talið óhreint sem þeir snerta, og þegar Englendingar komu þar fyrst, þá var meðferðin á þeim lítið betri en á villidýrum. Þá er og Ainufólkið nyrst á japönsku eyjunum, er virðist hafa hrokkið undan hinum núverandi íbúum og vera ævagamalt. Mætti þannig telja ýmsa smáflokka, en. þetta er nóg til að sýna, að alls staðar þar sem hinir aryönsku frændr vorir og forfeðr hafa yfir farið, austan frá Himalaya og vestr á Spán og Bretlandseyjar, alls staðar hafa þar *verið mannflokkar fyrir*, af alt öðru kyni, með frábrugðinn vöxt, með frábrugðin tungumál, með minni mentun. Og þessi hlaup hinna aryönsku flokka hafa þó hlotið að ske löngu fyrir Trójubardaga, löngu fyrir skrásetning ritningar vorrar, löngu fyrir Móses, löngu fyrir Nóa gamla, áðr en Zóróasters og Brahma trú fór að myndast, sjálfsagt einum 3000—5000 árum f. Kr. Hvar sem þeir fóru þessir víkingar, þar voru þjóðir fyrir, steinaldarmennirnir, sem vér nú köllum, og sem nú eru útdauðir, en sem menn einlægt finna fleiri og fleiri leifar af, eftir því sem árin líða og menn gefa því gaum, það voru mennirnir með mjóu og löngu höfðunum, haugbúarnir og hellrabúarnir, sem klæddust skinnum og dýrafeldum, sem þektu hvorki járn eða eir, en höfðu að vopnum barefli og steina.

---

Vér getum fetað oss aftr til ísaldarinnar, og frá þeim tíma þegar þrír fjórðu hlutar norðrálfunnar voru sævi þaktir, þegar ísflákarnir sigldu yfir sléttur þær, er nú eru bygðar hinum germanska flokki (Prússland), þegar jökulgarðrinn gekk hér yfir þvera Canada frá Klettafjöllunum norðan um Winnipegvatn, norðan við stórvötnin, en þau runnu suðr í Missisippi, í stað þess að þau nú renna í Laurenzflóann, kann ske fyrir einum 50—100.000 árum, þá finnum vér leyfar mannanna. Og það merkilega við þessar leyfar er það, að höfuðkúpur þessara manna eru eins innbyrðis ólíkar og þær eru nú: Margir af oss hafa kann ske heyrt um beinagrindina af Neanderthal manninum, sem kallaðr var, hún fannst á Þýskalandi og var sýnd í Borm árið 1857. Ég hafði hauskúpuna af honum uppdregna fyrir framan mig á borðinu, er ég ritaði þetta. En sú mynd. Ennið svo sem ekkert, strax við brúnabeinin hallast kúpan aftr, er mjó að framan og löng, en breikkar um mitt höfuðið, kjálkarnir ákaflega sterkir og breiðir; auðséð er að ekki hefir verið gott að verða milli kjálka honum, hann er vanr að halda því föstu eða mola það í sundı er hann nær í með tönnunum. Vér getum vel hugsað oss hann, þenna mann, klæddan bjarnar- eða tigris-feldi, með miklu flóknu skeggi, berhöfðaðan, með þykku, strýhærðu, flaksandi hári, hann klifrast upp og niðr eikur frumskóganna, liggr í bardögum við villidýrin og hver við annan, oft eru vopnin ekki annað en hendur og tennur eða þá barefli og steinar, þeir búa helst í hellrum inni, bæði til að skýla sér fyrir illviðrum, og svo til þess að hafa vígi fyrir óvinum sínum, þeir hafa í fyrstu ekki kunnað að temja dýr, eða rækta kornteguudir, heldr hafa þeir lifað á ávöxtum jarðar og dýrum þeim, sem þeir hafa getað veitt eða drepið. Það sýna leyfarnar í haugum þeim, sem menn nú eru alls staðar að finna. Þá hefir lítið verið um skrift eða lestr, því þá hefir það varla heitið að menn kynnu að

---

tala; mál hvers þjóðflokks hefir lengi verið örfá orð, eins og þeir geta skilið sem þekkja indversku málin hérna, og vita hve þau eru fátæk að hugmyndum og orðum. Helmingr málsins hefir lengi verið að eins hljóð og bendingar, því maðrinn hefir orðið að búa sér til orðfærið eins og annað. Mörg hroðaverkin hafa vafalaust farið fram í þessum fornu skógum, þegar óvinirnir voru etnir hvort heldr það voru menn eða dýr, þegar heiftin og grimdin hefir verið óheft af nokkurri siðgæðistilfinning, marga hroðasöguna getr maðr hugsað sér, er maðr hugsar til þeirra tíma, þegar dýrsleg grimd og líkamlegr kraftr var það eina, sem nokkurs var vert. Hvaða háleita þekkingu og hreint hugarfar hafa þeir haft þessir steinaldarmenn, sem lifðu um ísaldartímann, mikið ósköp hefir sálarfriðr þeirra verið sæluríkr!! Í jarðfræði Þorvaldar Thoroddsen segir: „að seint á ístímanum finni menn hínar fyrstu menjar mannanna í Europu, og bendi alt til þess, að þeir hafi þá verið á mjög lágu stigi.“ Þá fanst og árið 1866 hauskúpa ein á Bald Mountain hjá Angelos í Calaveros County í Caleforniu 130 fet í jörðu niðri, undir ferföldu hraunflóði, rétt hjá steingjörðri eik, og jarðlag það sem kúpa þessi lág í, er af jarðfræðingum kölluð pliocenemyndun. Sú myndun varð á þeim tíma, er menn hafa ætlað að Ísland hafi losnað frá öðrum löndum, þegar hryggr sá sökk í sjóinn er tengdi suðrhluta þess við Færeyjar, Skotland og Bretlandstanga, sem þá var áfastr við Frakkland; en líklega hefir þá lítið verið um mannabygð á Íslandi, því jarðfræðingar ætla, að þá, meðan ísöldin stóð sem hæst, hafi jökullinn sem huldi Ísland verið 2—3000 fet á þykt. Nú er þess að gæta, að á eptir tertiera tímanum, sem kallaðr er, og skiftist í 4 tímabil: eocene, oligocene, miocene og pliocene, á eftir þessum tímabilum öllum byrjar sú eiginlega ísöld, en nú ætlá menn að ísöldin hafi staðið yfir ein 100.000 ár að minsta kosti, og sjá menn þá, hve ævagamall maðrinn er á jörðunni, þegar nú skuli finnast leifar hans á tímabilinu á undan ísöldinni.

Ef að þessir fornleifafundir útdauðra mannflokka væru að eins einstakir, ef menn hefðu ekki fundið leyfar manna frá því fyrir 10—100.000 árum síðan, nema á einstöku stað, þá mætti rengja það og vefengja, en nú er það ekki hægt, því menn hafa fundið þessa hauga, aflanga og kringlótta, þessa hellra með beinahrúgum, útdauð dýrakyn svo hundruðum skiftir hér og hvar, bæði í hinum gamla og nýja heimi (Burrows á Englandi, Kjökkenmöddinger í Danmörku og prehistoric mounds í Ameríku).

Í fám orðum verðr niðrstaðan sú, að saga þjóðanna, eins og menn nú eru farnir að þekkja hana á síðari hluta þessarar aldar, hún neitar því, að á þessum tíma er ritningin getr um, hafi flóð komið yfir jörðina og eyðilagt mannkynið. Áðr þektu menn svo sem ekkert til sögu austrlanda, Egyfta, Persa, Indverja, Kínverja. Nú eru menn farnir að geta lesið rúnirnar á klettunum og grafreitunum, steinarnir eru farnir að tala, þegar mennirnir ekki vildu hætta að skrökva. Sagan sjálf neitar því, fornfræðin neitar því, jarðfræðin neitar því, þjóðafræðin neitar því, tungumálafræðin neitar því, en alt sannar það, að frá ómunatíð hefir mannkynið búið á jörðinni, kann ske í einar 100.000 til 150.000 ára eða meira. Í fyrstunni hafa menn verið mállausir, viltir og tryltir sem dýrin, en af því manninum af guði var ætlað að verða konungr jarðarinnar, af því að í eðli hans fólust æðri hæfilegleikar, en hjá dýrunum, af því að hann var í guðs mynd skapaðr, þá lyftir hann sér einlægt hærra og hærra yfir dýrin, uns stigi því er náð er vér nú stöndum á. Kynflokkarnir hafa verið margir, fyrst vitum vér af þessum steinaldarmönnum sem nú eru alveg útdauðir, svo koma flokkarnir sem yfirstigu þá og eyðilögðu. Hinn semitiski, hinn mongólski, negraflokkrinn, hinn aryanski flokkr. Til hins semitiska heyra, Aramæar, Kaldear, Arabar, Gyðingar og Ethiopar; til hins mongólska Kínverjar, Mongólar og Tartarar; til hins aryanska heyra Hindúar, Persar, Grikkir, Rómverjar, Celtar, Teutonar og Slavar. Svo eru enn hinar ameri-

könsku þjóðir auk hinna fyrnefndu flokka. Af aryanska flokknum heyra norðrlöndum til Celtar og Teutonar. Celtar hafa komið eitthvað að austan, þeir hrundu frá sér hinum fyrri íbúum, annaðhvort upp til fjalla eins og Böskum á Spáni, eða þá út í fen og foræði eins og Finnum, eða þeir kúguðu þá og gjörðu þá að þrælum. Seinna en Celtar komu Teutonar forfeðr vorir, ýttu frá sér Celtum og fóru eins með þá og þeir höfðu farið með þá er bygðu löndin á undan þeim (sjá Hist. of England, sem lesin er á öllum barnaskólum í Kanada).

Þennan aldr mannkynsins á jörðunni er hver einasti vísindamaðr búinn að viðrkenna, nema ef vera kynni einhverjar meir eða minna kaþólskar hræður, skorpnar saman af hindrvitnum og hégiljum. Það er því ekki til neins, að vera að reyna að ljúga því að sjálfum sér, að heimrinn sé tæpra 6000 ára og mannkynið 4200 ára, eins og ætti að vera ef þessi gamla frásaga væri sönn, að allir væru frá Nóa komnir.

En hvaða þýðingu hefir nú þetta? kann margr að spyrja. Það hefir töluverða þýðingu. Fyrst og fremst nemr það burtu það ámæli af skaparanum, að hann hafi farið að skapa fullkomna menn og ekki tekist það betr en svo, að þegar hann sá hvað verða vildi þá iðraðist hann verka sinna, reiddist og hefndi sín svo á mannkyninu, að hann hafði ekki önnur ráð en að eyðileggja það alt saman; nú hefðu átt að koma góðir menn og fullkomnir, hið yngra mannkyn hefði átt að vera syndlaust, en sú varð ekki reyndin á, honum tókst ekki betr í hið seinna skiftið en hið fyrra. Þessar ófullkomnu og ósæmilegu hugmyndir um skaparann falla burtu, þegar menn sjá að sagan um Nóa og syndaflóðið er ekki sönn. Menn fara að opna augun og sjá að þetta eru gamlar þjóðsögur Gyðinga, sem sýna að eins hverjar hafa verið hugmyndir *þeirra* um þetta efni. En þetta hefir og meiri þýðingu. Ef þú tekr bók eina og fer að lesa hana, og finnr í henni langan kafla sem þú veist að ekki getr verið sannr, þá sérþú strax, að höfundr bókar þessarar er ekki svo áreiðanlegr, að þú sért skyldr að taka hvert eitt orð hans sem guðdómlegan sannleik, þú verðr að rannsaka og finna út, hvað er satt og hvað er ekki satt. Þegar vér sýnum að þetta atriði hjá Móses er ekki sannleikanum samkvæmt, þá er þar með alt, sem Móses hefir ritað eða gengr undir hans nafni, orðið *vafasamt*.

---

vér þurfum ekki að trúa öllum þeim hryðjuverkum sem hann ber skaparanum á brýn, að hann hafi deytt frumburðina saklausa í Egyftalandi, að hann hafi skipað Gyðingum að deyða og myrða unga og gamla íbúa Canaanslands, að hann hafi boðið þeim að rupla og ræna o. s. frv. Vér þurfum ekki að hugsa oss hann svo ófullkominn, að hann hafi ekki vitað hverjir voru réttlátir í Sódóma, ekki fundið Adam í aldingarðinum, að hann hafi þurft að borða kjöt og kökur sem hver annar o. s. frv. Þetta hefir þá þýðingu, að það gefr oss hærri hugmyndir um skaparann, það gefr oss meira traust á honum, vér fáum réttari og sannari hugmyndir um lífið, uppruna þess og framrás, vér lærum betr að þekkja oss sjálfa og samband vort við guð. Vér leiðumst til að hugsa um það, hvort því sé nú virkilega svo varið, að sökum þess að Eva gamla greip epli eitt, sem hún fann, þá sé alt mannkynið sokkið svo í synd, að meginhluti þess lifi hér í lífinu í hörmungum og basli, en að því loknu steypist niðr í vítiskvalir og brenni þar að eilífu. Vér sjáum það fljótlega að alt það, sem bygt er á sögu þessari, það er ekki og getr ekki verið svo áreiðanlegt, að vér þurfum ekki að rannsaka það, þegar vér vitum að grundvöllrinn sem það byggist á er ósannr.

Sannarlega er það svo fyrir mínum sjónum, að þá fyrst, er ég fór að hnýsast inn í þetta, þá var eins og augu mín opnuðust og ég sæji nýja heima, nýjar dásemdir vors elskulega föður. Í staðinn fyrir smiðinn, sem smellti öllum heiminum af á 6 dögum og þurfti svo að endrbæta alt saman á eftir, í stað þessa sá ég hina eilífu framhaldandi sköpun, þá sá ég að faðirinn var ekki fjarri heiminum einhvers staðar í óendanlegri fjarlægð, heldr hlaut hann að vera verkandi í honum með sínum almættiskrafti, með sinni speki og með sínum kærleika. Eins og vér sjáum fjölbreytni grasanna og blómanna, eins er um mannkynið, og aldr þess bendir oss á eilífðina. Það má líkja þessum gömlu og nýju hugmyndum við snigilinn á þúfunni. Hann skríðr um þúfuna sína, grefr í hana göng og þykist ósköp mikill snigill ; þúfan er veröldin hans, hann þekkir ekki aðra, og honum finnst hún vera afarstór og víðáttumikil þessi veröld. Komi nú eitthvert fiðrildið og fari að segja honum frá enginu, skógnum, blómunum, trjánum og dýrunum, þá trúir hann því ekki og segir : „mikil óttaleg vitleysa, heldr þú að ég trúi þessu, burt, burt, það er enginn heimr til nema þúfan mín !“

---

## UPPRISAN.

Guðspjöllin segja oss, að þegar Kristr var krossfestr, hafi hermennirnir skift með sér klæðum hans og að líkami hans hafi verið vafinn í líndúk og lagðr í gröfina. Jóhannesar guðspjall segir oss, að Kristr hafi birst Maríu Magdalenu lifandi, hinn annan dag eftir að hann var grafinn, og hafi hann talað við hana. Sé nú þetta rétt hermt, hvaðan komu þá klæði hans, er hann var í klæddr, er hann talaði við Maríu, snemma hinn fyrsta dag vikunnar? Og hvernig stóð á því, að María hélt, að hann væri grasgarðsvörðrinn, þegar hún hafði séð hann augliti til auglitis og heyrt röddu hans?

Ef hið sanna í þessu væri það, að hann hafi verið klæddr fötum grasgarðsvarðarins, hvernig kom það til að hann var þannig búinn?

Guðspjallamennirnir segja oss það allir, að Jósep frá Arimathia hafi vafið líkama Krists í líndúk og lagt hann í sína eigin gröf, og Jóhannesar guðspjall segir, að Nikódemus hafi hjálpað honum til þess, og auk þess komið með smyrsli til að smyrja líkið. Það er fyllilega ljóst af Jóhannesar guðspjalli, að Jósep og Nikódemus vörðu seinni hluta föstudagsins til að smyrja líkið, því eftir lögum Gyðinga mátti ekki gjöra það á laugardaginn, sem var helgr dagr. Ef svo hefði nú til borið, að líkið, sem þeir héldu vera, hefði lifnað við þegar þeir voru að þvo það og smyrja, og Kristr verið liðinn í ómegin, en ekki dáinn, er hann var tekinn ofan af krossinum, hvað áttu þeir þá að gera við hinn endrlifnaða Krist? Það, sem næst lá, var að klæða hann, og þá lá beinast við, að klæða hann í föt gras-

garðsvarðar Jóseps, og var líklegt, að þeir hefðu útvegað honum skýli í húsi varðarins, falið hann þar, látið hann hvíla sig og fært honum þangað fæðu. Ef að menn vilja kasta þessum tilgátum, hvernig stendr þá á því, að María Magdalena, sem var svo nákunnug Kristi og horfði á hann og hlustaði á málróm hans, skyldi þó halda að hann væri grasgarðsvörðrinn.

Þeir, sem fastlega trúa því, að Kristr hafi dáið á krossinum og endrlifnað á yfirnáttúrlegan hátt, leggja vanalega mikla áherzlu á það, að gröfinni var lokað aftr og hún innsigluð, að beiðni æðsta prestsins og tilskipun Pílatusar. En í Mattheusar guðspjalli sjáum vér, að þess var ekki krafist, að gröfin væri innsigluð, fyr en einhvern tíma á laugardaginn, sjálfan sabbatsdaginn. Frá því að líkið var lagt í gröfina á föstudagskveldið, og alt til þess að tilskipun Pílatusar, að innsigla gröfina, var framkvæmd einhvern tíma á laugardaginn, gátu þeir Jósep og Nikódemus gjört hvað þeim sýndist og þeim hefir þótt þurfa, til að klæða, hýsa, endrnæra og hlúa að Kristi, og fela hann fyrir óvinum hans, kennilýðnum og hinum rómversku hermönnum.

Þá er og spjóts-sárið í síðu Krists vanalega tekið sem algild sönnun fyrir því, að Kristr hafi dáinn verið. En í rauninni sannar það alveg hið mótsetta. Þegar blóðið rann úr sárinu, þá sannar það, að hann hafi lifandi verið, þótt hann væri meðvitundarlaus. Úr dauðum líkama rennr aldrei blóð, þótt hann sé særðr.

Hve nær Kristr hafi lifnað við aftr vissi enginn, nema þeir Jósep og Nikódemus, og eru allar líkur til að þeir hafi viljað halda því

leyndu, þangað til Kristr hefði ráðið hvað hann skyldi gjöra. Hann hefir að líkindum hvílst í kofa grasgarðsvarðarins á landi Jóseps frá Arimathiu, þar sem gröfin var og óvinir hans héldu að þeir geymdu í lík hans. En þegar María Magdalena kom snemma á sunnudagsmorguninn til þess að ljúka við að smyrja líkið, þá hefir Kristr verið orðinn svo hress að hann hefir ávarpað hana, og sent með henni boð til lærisveinanna, að hann væri á lífi. Næst virðist hann hafa hitt þá á leiðinni til Emmaus, þá var hann hungraðr og þreyttr af löngum gangi og borðaði hjá tveimr þeirra, en þeim fer líkt og Maríu Magdalenu, að þeir í fyrstu þektu hann ekki í fötum grasgarðsvarðarins. Seinna er sagt, að hann hafi farið þangað sem hinir 11 postular voru saman komnir, og aftr beðið þar um fæðu. Í þriðja skiftið hitti hann nokkra þeirra á ströndum Tíberíavatns, og borðaði þá með þeim fisk er þeir höfðu veitt.

Þannig geta menn séð, að í hvert skifti sem hinn endrlifnaði Kristr hittir lærisveina sína, þá etr hann með þeim. Þetta hefir eðlilega komið af því, að hann hefir verið hungraðr og þreyttr af að fara fótgangandi langar leiðir, og svo af hinu, að hann hefir viljað eyða ótta þeirra og sýna þeim, að hann væri ekki andi heldr dauðlegr maðr, er þyrfti að eta og drekka eins og sjálfir þeir.

Með því að líta þannig á málið, geta menn betr en með nokkru öðru móti gert sér grein fyrir ýmsum frásögnum í guðspjöllunum. Þetta skýrir það, hvernig á því hafi staðið, að Pílatus undraðist svo mjög yfir því, að Kristr skyldi deyja svona fljótt eftir krossfestinguna. Þetta sýnir það, að spjótsstungan í síðu Krists sannar ekki dauða hans, heldr hið gagnstæða, því þegar blóðið rann úr sárinu, þá hlaut hann að vera lifandi. Það sýnir hve þýðingarlaus er sönnunin um innsigling grafarinnar, þegar gröfin var fyrst innsigluð eftir að hinn endrlifnaði Kristr var úr henni farinn. Þetta skýrir það, hvernig gröfin var tóm á sunnudagsmorguninn, án þess nokkurt kraftaverk þurfi að koma þar til. Þetta skýrir það, hvernig á því hafi staðið að Kristr skyldi ekki vera í neinum „skínandi klæðum“ eins og englarnir, sem sögðu að Kristr væri upp risinn. Það skýrir það, að María, Kleófas og félagi hans og seinna hinir 11, skyldu ekki þekkja Krist er þeir sáu hann. Það skýrir það, hvers vegna Kristr forðaðist bæði æðstu prestana, hina skriftlærðu, Faríseana og fólkið í Jerúsalem, sem fyrir skömmu hafði hrópað „hósanna“ fyrir honum, af því þeir ætluðu að hann mundi taka sér konunglegt vald og setjast á veldisstól Davíðs. Þetta skýrir það, er Tómas postuli vildi ekki trúa, að það væri Kristr, fyr en hann þreifaði á honum, því Tómas gat ekki þreifað á öðru, en hinum náttúrlega líkama. Þetta skýrir hungr hans, er hann þrívegis þurfti fæðu að taka eftir krossfestinguna, eftir því sem guðspjöllin segja. Loks skýrir það, hvernig á því stóð að upprisan skyldi ekki þegar vera gjörðr hátíðlegr viðburðr, er notaðr væri til þess opinberlega og í heyranda hljóði að sanna sögu postulanna, en hrekja prestana og hina skriftlærðu. Sá atburðr hefði ekki getað dulist, því hann hefði verið einstæðr og ógleymanlegr í allri sögu mannkynsins.

Hvað snertir uppstigning Krists, er líkami hans, hold og blóð og

bein hurfu upp í loftið í ásján lærisveinanna, þá er þess að gæta, að það eru að eins Markús og Lúkas, er segja frá því; en þeir voru hvorugr þar við staddir, því þeir kristnuðust ekki fyr en fleiri árum seinna. Jóhannes og Mattheus hefðu átt að geta sagt frá þessu, sem sjónarvottar, en þeir gjöra það ekki, þeir minnast ekki á það. Höfundar guðspjallanna segja oss frá því, er þeir trúðu um þetta, en frásögn þeirra sannar einmitt, að þeir trúðu þessu án þess að rannsaka það, eða hafa gildar sannanir fyrir því. Þeir hafa tekið það sem áreiðanlegt, er hinn og þessi hefir sagt þeim, eins og svo margir gjörðu á þeim dögum er menn trúðu betr einhverju, sem var ólíklegt og yfirnáttúrlegt, en því sem var sennilegt og náttúrlegt.

Með því að guðspjöllin geta svo sjaldan um framkomu Krists eftir krossfestinguna, þá er all-líklegt að hann hafi lifað skamma stund eftir það. En hve nær dauða hans hafi að borið, hafa þeir Jósep frá Arimathiu og Nikódemus líklega vitað um, en þar eð þeir geta ekkert um það, fá menn að líkindum aldrei að vita það. Enda er það ekki líklegt að þeir hefðu kært sig mikið um það, að skýra frá því. Þeim höfðu brugðist vonir sínar um Messías, þeir vissu að fregnin um upprisuna var ósönn, þeir vissu að sér mundi verða hegnt, ef það hefði komist upp að þeir hefðu leynt Kristi og hjálpað honum eftir krossfestinguna, og því var það mjög eðlilegt að þeir þögðu um það er þeir vissu.

[Tekið úr „The Unitarian Mag. Jan. 1894“].

---

☞ Þrátt fyrir auglýsingarnar í þessu nr. DAGSBRÚNAR, fá þó lesendrnir hér um bil 19 blaðsíður af öðru lesmáli.

---

☞ Þeir kaupendr DAGSBRÚNAR sem enn eiga óborgaðan fyrra árgang hennar, eru vinsamlega beðnir að borga hann sem fyrst. — Sömuleiðis leyfum vér oss að minna á að oss er kærkomið að borgun þessa árgangs verði ekki dregin lengi.

---

☞ G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans í þeim efnum. ☜

---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---

„DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00 |

— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. —

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.